# Síusígarettur vinna á hér á landi

## Rætt við Olof Stållberg og Einar Th. Matthiesen um Marlboro og Roy sígarettur



Einar Th. Mathiesen, umboðsmaður Philips Morris á Íslandi og Olof Stallberg, sölustjóri fyrir Norðurlönd, kynna blaðamönnum Marlborosígarettur. Ung stúlka er í miðju, en hún gekk um beina með sígarettur og veitingar. (Myndina tók Ljósm. Mbl.: Sv. Þorm.)

**Sjálfsagt þykir það ekki góð latína á þeim heilsugæzlutímum, sem nú eru, að auglýsa sígarettur, eiginlega klappa fyrir krabbameinsvaldi.**

**Fyrir örfáum dögum boðaði Einar Mathiesen, umboðsmaður fyrir Philip Morris — tóbaksvörum, til blaðamannafundar til þess að kynna sölustjóra þessa alþjóðlega fyrirtækis á Norðurlöndum, herra Olof Stall berg, en einmitt um þessar mundir er að hefjast áróðursherferð hjá fyrirtækinu E. Th. Mathiesen h.f. til aukinnar sölu á Philip Morris — tóbaksvörum.**

Að íslenzkum sið byrjuðum við að fræðast um uppruna og ætt Ólafs Stallberg eins og nafn hans myndi vera á íslenzku.

„Já, ég er fæddur í Stokkhólmi, en föðurætt mín er úr Dölunum í Svíþjóð, en móðurætt frá Suðurlandinu þar, rétt hjá Mälaren. Ólst ég upp í höfuðborginni og tók þar mitt stúdentspróf. Stundaði ég síðan nám við Verzlunarháskólann, en að námi loknu vann ég 12 ár hjá sænsku tóbakseinkasölunni. Það var svo 1964 að ég réðst til Philip Morris. Ég er 44 ára gamall, kvæntur og á 3 börn, og bý í Stokkhólmi."

„Það væri fróðlegt að vita, hvenær þér sjálfur byrjuðuð að reykja?"

„Það er nú liðinn ærinn tími síðan. Ég reykti mest pípu fyrst framan af, en reyndi síðan við sígaretturnar. Úrvalið var ekki mikið á stríðsárunum heima í Svíþjóð, en þegar stríðinu lauk, jókst tegundaúrvalið óðfluga.

Nú er ég hingað kominn til að mæla með Marlboro og Roy — sígarettum og Revelation-píputóbaki. Auðvitað framleiðir fyrirtækið margfalt fleiri tóbaks tegundir, en þessar þrjár, og mætti nefna Benson og Hedges, Parliament, Adbullah og De Rezke sígarettur og Bond Etreet og Four Square-reyktóbak, en ég hugsa, að Íslendingar kannist vel við flestar þeirra.

Þótt það komi ekki tóbaksherferðinni beint við, framleiðir fyrirtækið einnig Personna,rakblöð, Birma-rakspíra tyggigúmmí, svo að eitthvað sé nefnt.

Marlborosígarettan mun vera mestselda ameríska sígarettan á heimsmarkaðnum í dag, og árleg söluaukning á henni í Bandaríkjunum hefur verið meiri en 24 prs. undanfarin ár.

Roysígarettan virðist seljast meira úti á landi hér á Íslandi, hvað sem veldur. Í Svíþjóð selst langmest af Marlboro, af amerískum sígarettum, og svo er einnig í Sviss, en í Finnlandi er hún nr. 3 af samanlögðum markaði bæði innlendra og innfluttra sígarettna. Þannig er einnig um fjölmörg önnur lönd.

Verð á Marlboro á Norðurlöndum er lægst í Finnlandi, þar sem verðið er 33. krónur pakkinn, en á Íslandi er verðið 39.50. Hæst er verðið í Danmörku, þar sem hver pakki kostar 80.50. Er allstaðar miðað við íslenzkar krónur".

„Hvernig vilja Íslendingar hafa sígarettur? Kaupa þeir meira af síulausum sígarettum en aðrar þjóðir?"

„Þeir hafa verið seinni til en aðrir að tileinka sér síusígarettur, en þær vinna stöðugt á. Árið 1964 var sala þeirra 4 prs. af heildarsölu, en í dag er hún 30 prs. Philip Morris tóbaksvörur hafa að sjálfsögðu lengi verið seldar á Íslandi, en það er fyrst árið 1966, þegar E.Th. Mathiesem h.f. tók við umboðinu, að unnið hefur verið skipulega að markaðsmálum, m.a. með auglýsingum á Marlboro og Philip Morris Multifilter sígarettum. Roy-sígarettur eru seldar hér án síu."

Á fundinum var blaðamönnum sýnd merkileg kvikmynd um sögu tennisíþróttarinnar í heiminum, og komu þar fram allmargir starfsmenn Philip Morris, því að nokkrir þeirra eru heimskunnir tennisleikarar.

Ung stúlka í fötum, sem líktust Marlboro sígarettupakka, gekk um beina, og voru þar auðvitað fyrst og fremst á boðstólum, sígarettur, auk annarra veitinga. Olof Stallberg stóð stutt við hérlendis, og mun nú aftur kom inn til Stokkhólms. — Fr. S.

1002403312